# Forordning /
um
Tilhlijdelegt
# Helgehalld Sabbathsens
og añra Helgra Daga á Islande.

Utgiefeñ á
Hirsch-Holms Slote, þañ 29. Maji Anno 1744.

Prentud á Hoolum i Hialltadal, Anno 1744.

VJER CHRJSTJAN Hiñ Siøtte/ af Guds Nᴂd/ Konungur i Danmørk og Norege / Vinda og Gauta / Hertuge i Slesvijk / Holstein / Stormarn og Ditmerſken / Greife i Oldenborg og Delmenhorst/ Giørum øllum vitanlegt, ad Vier høfum funded þad vera gott, ad giøra Skipun og Skickun um̃ Sabbaths Dageñ og añra Hᴂtijda og Bᴂnadaga Helgehalld a Voru Lande Jslande, til Eblingar Guds Dijrdar, so sem Vier Allra-Nᴂdugast Skipum og Bioodum hier med eñ framar.

I

Skulu aller Suñudagar, og þᴂr Helgar, sem Løgeñ bioda, eins lijka Skijrdagur og Føstudagureñ lᴂnge, Saker hins mykla Endurlausnar Verks, halldast af øllum, Einum og sier hverium, i allre Spekt og Gudrᴂkne, Heilager, so sem hᴂfer, bᴂde fyrer og epter Middeige.

2.

So ad Catechisationen, sem er af Oss Allra-Nᴂdugast tilskipud, epter Predikunena, verde añadhvørt ecke ofstutt, edur ad øllu Leite vanrᴂkt, nie helldur ad Sooknar-Folked tefiest ofleinge frᴂ sijnu Heimile, hellst þa Harka er ᴂ Vetrum, og verde þess vegna ᴂngursamt, þa skal Pioonustugiørden vera allstadar byriud i Kyrkiunum so sneiña, sem þad er møgulegt, og jafnvel þott Fiøllde þeirra, sem ᴂtludu ad gᴂnga til Alltaris, edur adrar Hindraner, sem ei verdur hiᴂ komest, Ord-

søkudu

søkudu i þessu nockra Tøf, þa skalt ecke seiña eñ Kluckan Toolf, Þar fyrer skal og Sooknar-Foolked vera so sneina i Kyrkiuñe, og þa hrijngt er i Aññad Siñ, hvør i sijnum Stad, eñ eingvanveigeñ dvelia wte aa Kyrkiugardenum, ellegar i naanustu Hwsum þar til ad Predikunen byriast: Ef nockur brijtur i moote þessu, og vill ecke siaa ad sier epter þa Pridiu Vidvørun, sem þar uñ hefur giørd vered, þa skal klaga þañ fyrer Veralldlegu Yfervallde, og hañ sie straffadur, sem saa, er brijtur Sabbath.

3.

Guds Þioonustu giørd skal strax byriast aadur eñ hiñ Fyrste Psalmur, edur Introitus er sungeñ, med þeirre Bæn og Fader vor, sem þegar hefur vered iñfærd i algengnar Messu Saungs Bækur, og enda a sama Haatt med Bæn og Fader vor epter Catechisationena, og skal eiñ þeirra, sem syngia i Chornum, og kuña best ad lesa aa Book, lesa þessar Bæner med Gudrækne, eñ i Skaalhollts og Hoola Doom-Kyrkium eiñ af Skoola-Pilltum Doomkyrkiuñar.

4.

Engiñ Prestur maa utan hærstu Naudsynia undan fella Guds Þioonustu giørd i Kyrkiuñe Eiñ Suñu-Dag, miklu sijdur Tvo edur Þriaa Suñu-Daga hvern ad ødrum; Og ef nockur vegna Oþarfa Ferdalags, edur aan fengens Leifes, sem Løgeñ biooda, vanræker þañig þañ Søfnud, fyrer hver ium hønum er trwad, þa skal hønum talast til fyrer þad af Profastenum: Og ef þvilijkt Hyrduleyse finst hiaa Profastenum, aan þess hañ hafe aadur giefed þad sijnum Biskupe til Vitundar, so sem byriade, þa skal Løgsækia hañ fyrer Consistorio: Eñ ef þad skiedur optar, þa skulu þeir hafa forbroted sitt Kall.



þegar

Þegar þær Tijder Arsens eru, so sem um̃ Jons Messu og Mikels Messu, ad Bændurner verda ad vera sier wte um̃ Biorg og Lijfs Upphelldе, so sem añadhvort med þvi ad tijna Grøs, edur Urter til Matar aa Fiollum, edur eru til Fiske-Abla vid Sioo, ellegar i Leaungferdum epter Fiske, þa skulu þo Prestarner Embætta, og jafnvel þott þa sieu ecke so marger til, sem kuña ad sijngia i Chornum, þa skal þo hallda Saungvum uppe, med Kveñfoolke, Børnum og Viñuhiwum, sem ega ad koma þaangad, og skulu vera naalæg i Kyrkiuñe: Sierdeiles ega og Prestarner ad Catechisera fyrer Ungmøñum aa þeim Tijmum, nær eckert fullorded Foolk er til Stadar.

6.

Prestunum er giørd sw Adværun og skipad alvarlega hier med, nær þeir eru i Kaupstødunum til ad wtvega sier Lijfs-Biorg, ad hegda sier þañig, sem hæfer Verdugleika og Vigtugleika þeirra Embættes, og þa einganveigeñ ad draga so Tijnnañ, ad þeir gete ecke vered i sijnum Sooknum aa Suñudegenum og sialfer flutt sitt Embætte og Guds Þioonustugiørd, so ad ecke stande nein Hindrun þar af; hvers vegna Prestarner, samt þeirra Medhiaalpatar, þegar þeir eru i Kaupstødunum skulu og ega fyrr eñ aller adrer ad afgreidast af Kaupmøñum þess Islendska Compagnies, og faa frañkomed sijnu Eyrende. Eñ ef Prestarner kiæmust ecke so fliott aa Frañfære, so ad þeir yrde ad dvelia lengur eñ eiñ Suñudag burt fraa Sookn siñe, þa ega þeir ad bera Um̃hyggiu fyrer þvi, ad hiñ naanaste Prestur flytie þar Guds Þioonustugiørd og Embættes Verk.

7.

Prestarner skulu hallda Soknar Foolkenu med Kostgiæfne, aan Mañgreinar Alits, til ad koma i Guds Hws, aasamt med

med sijnum Børnum, Hiwum, Hus-Foolke og Undergefn-
um. Ef nockur finst þverudarsamur, skal hønum giørast A-
miñing Tvisvarsiñum af Prestenum; Og ef þeir Vilia ei
hlijda Amiñingum Prestsens, helldur koma samt sem aadur
ecke, aan Rettrar Orsakar, þa skal Presturen klaga þad fyr-
er þvi Veralldlega Yfervallde, sem skal aan Bida leitast vid
ad fa þad Lagfært epter Løgum og Maalsens aasigkomulage:
Ef Presturen þeger yfer þessu, edur ef sialfar Yfervallds
Persoonurnar fiñast Vanræktarfullar i þvi, ad fara til
Guds Hussf, ellegar og i þvi, ad straffa adra þvilijka Pver-
brotna og vijsvitande Sabbaths Yfertrodslu Meñ, þa sku-
lu þeir Prestar uppa hveria slijkt Hyrduleise verdur bevisad,
greida Tvøfalldt Helgedags Brot, sem falle til Faatækra
Presta Eckna: Eñ Yfervallds Personum se talad til, fyrer
Forsoomun i þvi ad lifa epter Vorum Allranaadugustu Be-
falningum. Og ega Reppstioorarner, so sem Politie Pen
arar Syslumañaña, ad vera Athugasamer hier uñ: Og, so
framarlega sem þeir Vilia, ecke sialfer mæta Straffe, ef
þeir eru Hirdulauser edur Raangfilgner, segia Prestenum til
þeirra, sem þeir vita ad vera Vanræktar fuller i þvi ad vitia
Guds Hus.

8.

Eiñ og sierhver skal fara til Kyrkiuñar a hvørium Suñu
dege þegar þar er Embættad, og engiñ ma þad undañfella
aan Løgmætra Orsaka, so sem er Veikleike, Pioonusta Siuk
ra, Vatna vexter og Snioo-koma, ofmikel Vegaleingd ell-
egar Torfærur, edur øñur stoor naudsynleg Forføll. Van-
ræke nockur Tvo Suñudaga a Sumar, og a Vetrar-Tij-
ma Þria Suñudaga i Rød, aan Løglegra Orsaka, ad ko-
ma til Kyrkiu, þa skal sa gefa 4. Mørk Dønsk til faatækra

Ekna i þeirre Sokn, hvar hañ dvallde. Þeir Jslendsku Kaupmeñ og þeirra Erfidis-Foolk, skulu og, þegar þeir skilia Jslendskt Maal nockurnvegeñ, vera aa sama Haatt skyllder til, ad fara til nærstu Kyrkiu aa hveriunn Suñudege, ødrum til goods Epterdæmis; So og lijka þeir sem eru vid Sioo aa Vetur, til ad fiska, og þeir so nefndu Kaupameñ, sem eru i ødrum Sooknum til Slaattar aa Sumrum, ega ad vitia þeirrar nærstu Kyrkiu kostgiæfelega, og frañleggia Bevijsingar þar uñ þegar þeirra Skrifta-Fader heimter þad.

9.

Hws-Fedur og Hws-Mædur skulu svara til þess, ef Børn þeirra og Hiw koma ecke til Kyrkiuñar, þegar þau eru añars so gømul, ad þau mega heyra Predikun med Athuga, og skulu þeir, ef þeir geta ei siaalfer raaded Boot aa eins edur añars Ohlijdne og Overmoodsku, segia Prestenum þar fraa, hver ed skal aatelia hina Þraalyndu med Alvørngefne aan allrar Dvalar.

10.

Engeñ, hver hellst sem hañ er, maa fara wt wr Kyrkiuñe aa medan Guds Þioonustugiørd stendur yfer, aan Løglegrar Orsakar og stoor Naudsynlegra Forfalla, og skulu hiner Fullordnu, sem þverskallast i þessu, epter giorda Advørun, svara Helgedags-Brote; Eñ hiner Ungu lijde Straff þar fyrer af Forelldrum sijnum: Og maa loka Kyrkiu-Dyrunum þegar saa Psalm ur Alleinasta Gude i Himnarijke byriast, til ad hindra alla Utgaungu og O-Ordu; Þo skal Hrijngiareñ, ef nockur kiemur sijdan og knijr aa Kyrkiu-Dyr med øllu Sidlæte, vera fws og til Reidu ad liwka upp fyrer hønum; Eñ þeir sem eru naalægger, skulu vera þar kyrrer, þar til ad Guds Þioonustugiørd, aasamt Catechisationen er endud.

11.

11.

Sw Pridia Hrijnging med øllum Kluckum, sem sumstadar þar i Landenu er Vanaleg, þegar bwed er ad syngia hiñ fyrsta Psalm, skal vera aftekin, med þvi ad Søfnuduriñ hindrast þar vidur i sijnum Saung og Gudrækne.

12.

Prestarner skulu hallda Tilheyrendum sijnum til þess i øllum Kiærleika, ad aller þeir, ecke einungis Karlmeñ, helldur og Kveñfoolk sem kañ ad lesa, hafe hver sijna Psalma Book med sier, til ad syngia þar aa: Og skal Kveñfoolked, bæde þa sunged er og predikad, sitia med beru Andlite, so þad byrge þad ecke med sijnum Klwtum, (til þess ad Keñemeñerner gete þvi helldur vitad, hvert þad aan Svefns take epter þvi sem fram̃ er fært i Predikuneñe.)

13.

Þeir sem koma til Kyrkiuñar, skulu, þegar þeir vilia ecke gaanga iñ i Kyrkiuna, og engeñ Veikinde hindra þa þar fraa, nie helldur nockur bevijsanleg Naudsyn, sem reke epter þeim ad flijta sier heim, Kyrkian eiñig er so stoor, ad þar er noog Rwm i heñe fyrer þa sem adra, aalijtast sem þeir er ecke hafa vered i Kyrkiu aa þeim Dege.

14.

Þad maa ecke vera Keñemoñunum leyfelegt þegar Embætta skal a Føstuñe, ad tiltaka Dagiñ edur hafa skipte a honum, epter siñe egeñ Villd og siaalfs hans Hægd a hverium hañ vill hallda Føstu Predikun, helldur skal eiñ Dagur vera þar til, sem er vitanlegur Søfnudinum, Ohræranlegur, viss og tiltekiñ: Nefnelega Midvikudaguriñ a þeim Høfud Kyrkium edur Añexium, hvar Presturiñ og Søfnuduriñ gietur vered til Stadar i rettañ Tijma; Eñ i þeim Stødum,

hva

116 hvar Kyrkiurnar eru of fiarlægar Søfnudenum, og þeim veiter þungt ad vera til Stadar, skal Føstu-Predikun halld-ast Laugardagiñ fyrer edur Manudagiñ epter þañ Suñu-dag sem Embættad er a sømu Tijd i Kyrkiuñe, eins og hing-ad til hefur sked sumstadar, þo skulu þeir Dagar edur Tijder blijfa Obreitter, so ad Søfnudurinñ vite ad haga sier þar ept er, þegar þeir hafa einusiñe vered vijst til skipader. Ecke helld ur mega þeir tilskipa Bæna-Daga til ad taka Foolk til All-taris i nockre Sokn, hvar Kalled er lidugt, og engeñ Prest-ur hefde vered i laangañ Tijma.

15.

Til þessad Predikanernar mege lagast, so þær seu til Upp-byggingar þa ega Prestarner ecke alleina ad Studera med Bæn og Akallan til Guds uppa þeirra openberu Rædur, heldur og taka þær saman skriflega, ad minsta koste þad hell-sta Iñtak þar af (so framarlega sem þeir hindrast ecke þar fraa med Erfide edur añarre Taalman, sem er hin hæsta Naudsyn) so ad Superintendenten gete þær yferlited, nær hañ heim ker þad i hvers Ars Visitatium, edur teked þær med sier, so ad hañ gete sagt til þess sem Þorf gøreft.

16.

Kyrkiunum skal hallda hreinum og Rumgoodum a Suñu degenum, og maa þar eins lijted a ødrum, sem a þeim Dege fiñast Fatnadur edur Sængur-Klæde, Gots edur Vara, hneirleslegar Minder, og þær sem strijda moote þeir re Evangelisku Religion, med þvi slijkt er ovidurkvæmelegt, og ecke samhlioodande vid þau Heilegu Verk, sem þar ega frañ ad fara. Þo mega Kistur standa þar, med þvi sem kañ ad vera geimt i þeim, hvar ecke eru Stoolar edur Becker ad sitia a. Eiñig hvar Lopt eru i Kyrkium med Læsing fyrer, þar

maa

ma geima hreinlega Hlute, sem ecke giefa illañ Daun af sier, ellegar eru a añañ Haatt osæmande i þeim Stad: Eñ eingiñ añarleg Hondlan maa hafast uñ Hond i Kyrkiunum, añars skal sa sem giorer a mote þessu, sekiast Einu Loode Silfurs fyrer hvert Siñ.

17.

Prestarner skulu aamiña Soknar Foolked, ad bruka þad, sem epter er Suñudagsens og Helgariñar, til Uppbyggingar, þegar Guds Pioonustugiord er endud, og þad er komed heim til sijn aptur, og ad Jhuga hvad Kieñemeñerner hafa framfært af Guds Orde; Eiñig ad Utausa Hiortum sijnum fyrer Gude med Bæn, Akallan til Guds og Lestre And rijkra Booka; Og einkanlega Forelldra og Hws-Bændur, ad þeir hallde Bornum sijnum, Skilldfoolke og Hiwum til þess sama, med Kostgiæfne; Grenslest epter af þeim, hvad þau hafe munad ur Predikuneñe sier til Uppvakningar, og ad Enda Hvijldardagiñ sameiginlega med einu Hiarta og Gudrækne, med Bæn og Fyrerbeidslu fyrer Guds Kirkiu og Framgaunge hañs Ords, fyrer Oss og þvi Konunglega Erfda-Hwse, aasamt odru sem eiñ riettlyndur Christeñ Mad ur a ad giæta ad i Bæn siñe.

18.

Eingiñ maa, fyrer utañ stærstu Naudsyn, viña a nockrum Suñudeige edur helgum Deige, ecke helldur skipa edur leifa nockrum af sijnum Hiwum þad ad giora, so framarlega, sem þeir vilia ecke straffast fyrer Helgedags Brot. Ecke helldur maa nockur aa Skijrdege edur Fostudageñ Laanga, helldur eñ aa Suñu og odrum helgum Dogum Roa med Baata aa Sioo wt, til Fiske-Abla, fyr eñ Suñudagureñ og Helgeñ er ad

 ollu

øllu Leite lideñ. Nema ef so være, ad stoor Hwngurs-Neyd þreyngde Moñum þar til.

19.

Allt Tabl, Leiker, Hlaup, Spil, Gaarunga-Hial og Skemtan, Ferdalog, sem ecke aahræra Naungans Uppbygging, edur Jdkun Christelegs Kiærleika, edur þær Ferder, sem giorast til eigeñ Aviñings, ellegar þær sem geymdar eru til ad spara Rwmhelga Daga, til Kaupstadaña edur fraa þeim, Fyrerbioodast alvarlega hier med øllum, Einum og Sierhverium, aan Misinunar, ad vidløgdu Straffe sem Helgedags Brot aaskilur: Dyrfest nockur af Kaupmoñum þess Jslendska Compagnies aa Suñu-og Heiløgum Døgum, edur helgum Kvølldum ad selia Vøru, slaatra Fenade, edur ad erfida og fremia Høndlun aa nockurn Haatt, hvert sem þeir giøra þad sialfer, eda laata sitt Foolk giøra þad: Sømuleidis ef nockur lætur sig fiña aa greindum Tijdum hiaa þeim i Kaupstadnum, til ad kaupa edur selia, nema ef þad være til ad hiaalpa og biarga einum Siwkum, þa skulu þeir sem briioota þar i moote, giallda Tvøfalldt vid þad, sem þeir ætludu ad selia edur kaupa, skal haalft falla til þess er Openberar þetta, hver hellst sem hañ er, og hitt haalft til Faatækra Presta Eckna. So skal og saa Kaupmadur, sem verdur fundiñ i þvi, ad ferdast medan Embætte stendur yfer a helgum Døgum, til Lauga, þaangad sem Skoogur er, og so framveiges, giallda fyrer Helgedags Brot fyrer sig og sierhvern þañ sem hañ tekur med sier.

20.

Þeir sem hafa nockurn Aburd medferdes, skulu hallda þar kyrru fyrer med sijna Aburdar Hesta, þar til ad Helgiñ er Endud, hvar þeir tooku sier Naattstad a Laugardags Kvøllded, og a medañ fara sialfer, sem og þeirra Fylgiarar,

larar, so marger sem mogulegt er, til hiñar nærstu Kyrkiu: Eñ ef Kyrkiañ er so laangt fraa þeim, so sem þeim ed eru laang: uppa Fiollum edur Fiallbygdum, so ad þeir gieta ecke komist þaangad, þa skulu þeir hallda Hvilldardagiñ og Helgina Heilaga med allre Gudrækne, þar sem þeir eru; Po er þeim ecke bañad sem ecke hafa Aburd med sier ad færa, ad ferdast a Suñudags Morgne nidur af Fiollunum, ef þeir giora þa ecke añad eñ ad vitia Guds Pionustugiordareñar i nærstliggiande Kyrkiu. J hærstu Naudsyn er þeim og leift, sem Vilia komast ut til Vestmaña-Eya, edur þadan, ellegar gieta ecke hiaa þvi komist ad fara yfer Siooeñ, ad ferdast þa a Helgum Deige, þegar Vedurlaged hefur añars hindrad þa leinge.

21.

Verde Preste nockrum boded til eins ærlegs Samkvæmes a nockrum Suñudege, þa skal hañ hegda sier þañig, sem vel hæfer og sæmer hañs Stande, lijka so, ad hañ se þeim, sem eru nærlæger, til Uppbyggingar, og ma hañ engañveg in vera Frameñstodu Madur fyrer Borde hiaa nockrum, hver hellst, sem hañ vera kyñe.

22.

Engeñ, hvert helldur Andlegrar edur Verralldlegrar Stiettar, ecke helldur nockur saa, sem fyrer þvi er trwad, ad standa fyrer Vorum Reikningum, maa aa Suñu-og helgum Dogum fyrer edur epter Embætte mæda Bændur edur adra med nockurskonar Reikninga Umsvifum; hver sem giorer i moote þessu, skal fyrsta Siñ giallda Helgedags Brot, og añad Siñ mæta Akiæru og Straffe, so sem þeir ed af Hreckvijse brioota vor Log.

Þeir vidteknu Sider, sem hafa vered skipader og vidhalldest fraa gamalle Tijd, med þvi Vallde sem Biskuparner hafa sier siaalfer teked, Nefnelega, ad i øllu Islande hefur Predikun vered halldeñ aa Joola Noottiñe, yfer þad veniulega Haatijdar Evangelium Luc. 2. v. 1.—14. Og þar aa moote Fyrsta Dag i Jolum vered predikad yfer þañ Texta Joh. 1. v. 1.—14. Sømuleides ad Sumardagureñ fyrste og Vetrardagureñ fyrste hefur vered halldeñ haalfur Heilagur i Imsum Stødum i Hoola Biskups Dæme, og eiñ Texte wtlagdur, sem Presturinn hefur siaalfum sijnst ad wtvelia; Lijka þad, ad i Þremur Syslum i Hoola Biskups Dæme, Nefnelega, Skagafiardar, Eyafiardar og Þijngeyar er Veniulegt, ad Bændurner kome saman aa einum vissum Dege Arsens til þeirra Kyrkna, til hverra þeim hefur vijsad vered af fyrverande Biskupum, til ad laata eina Giøf wte, epter Frijvilia, Faatækum til Uppehelldis, hvar eiñig er Embættad af nockrum Prestum til skiptis; Skulu her epter aller og ølldungis vera aftekner, so sem gagnstæder þeirre Samhlioodan og jøfnum Hætte, sem aa ad vera i baadum Vorum Konungs Rijkium i Kyrkiu-Esinum: Og skal nu saa Texte Luc. 2. v. 1.—14. her epter vera wtlagdur a Fyrsta i Jolum i Haa-Messu, eins og þad skedur i Vorum Konungs Rijkium Danmørk og Norege; Eñ so ad Faatæker þurfe ecke i ad missa, vegna þess, ad þeir Samkomu- og Predikunar-Dagar eru afteknar, sem hafa vered halldner i aadurnefndum Syslum aa vissum Dege aa Are, þa leyfum Vier Allra-Naadugast, ad siu Ølmusa og frijvilinga Giøf, sem aarlega hefur vered laaten af Hende, aa þeim Dege Faatækum til Uppehelldis, mege heimtast aa nockrum Suñudege þa Sooknar-Foolk kemur til Kyrkiuñar.

Og med þvi þad skal vera orded ad Plagsid a Islande, ad Sysslumeñerner hallda Mañtal og Hierads Þijng, sumstadar i Kirkiunum, berande þad fyrer sig, ad engen Hws sen þar til hentug, þa forbioodum Vier Allranaadugast her med ad hallda nockur Mañtals edur Herads Þijng her epter i Kirkiuñm, og bioodum og skipum þar a moote, ad Almwgeñ, under Vors Amtmans og Sysslumañaña Direction Uppbygge hentugt Þijng-Hws, i sierhverre Þijng Sookn, hvar þess giørest Þørf a hentugustu Stødum, og med þvilijkum Hætte, sem sked getur epter Landsens aasigkomulage. Añars vilium Vier Allra-Naadugast, ad þesse Vor Forordning, aasamt þvi sem Vor Norsku Løg iñe hallda uñ þa er ega ad hallda sier fra Kvølldmaaltijdareñar Sacramente, uñ Svardaga og uñ Barna Aga, se uppleseñ aarlega aa Predikunar-Stoolunum a Paalma-Suñu Dag, og Fioorda Suñu-Dag i Adventu fyrer Søfnudnunum, so ad aller vite þar epter ad giøra, og hun verde allra underdanigast adgiætt allstadar a Voru Lande Islande, eins aa fasta Landinn sem þar hiaa og underliggiande Eyium, og ad þar se þañig eptergengid af þeim Yfervallds Persoonum Andlegrar og Veralldlegrar Stiettar, hveriar af osseru Allra-Naadugast skickadar, so sem þær siaalfar vilia svara fyrer. Hvers vegna Vier bioodum og Befølum hier med Vorum Stiptbefalnings-Mañe, Biskupum, Amtmañe, Løgmøñum, Sysslumøñum og ødrum, til hverra þesse Vor Forord ning verdur send, ad þeir laate strax lesa hana upp og kuñ-

 giøra

/22. giøra a tilhlijdelegum Stødum, øllum til Epter-Rettingar. Utgefed a Hirsch-Holms Slote þan̄ 29. Maji. 1744.

Under Vorre Kongleg. Hende og Signete.

# Christian R.

(LS)

Epter Allra-Nꜳdugastre Skickun til Mijn Underskrifads, Dater: a Hirsch-Holms Slote þan̄ 29. Maji. 1744. Er þesse Allra-Nꜳdugasta Forordning um̄ Helgehalld Sabbathsins og an̄ra Heilagra Daga ꜳ Islande, þan̄ig sem her siest, Utløgd ꜳ Islendsku epter þvi Danska Exemplare, og lꜳten utgꜳnga a Prent. Test. Skꜳlhollte þan̄ 29. Augusti. Anno 1744.

Ludvig Harboe.